Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

15/16 tbl. Þriðjudaginn 26. apríl. 6. árgangur Verð kr. 60.

**Verkafólk! Fjölmennum í aðgerðir BARÁTTUEININGAR 1. maí!!**

# Notum bestu vopnin

Borgarastéttin og ríkisvald hennar hafa undanfarna mánuði ráðist heiftarlega á lýðréttindi og vinnukjör verkalýðsstéttarinnar. Kaupmáttur verkalauna hefur aldrei verið minni í áratugi, þrátt fyrir að samið hafi verið um rauð strik í síðustu samningum, til að viðhalda kaupmættinum. Á togurunum er vinnuvikan 84 stundir og stór hluti verkafólks í landi þarf að vinna langt yfir 60 stunda vinnuviku fyrir brýnustu lífsnauðsynjum. Kaup í fæðingarorlofi verkakvenna hefur verið afnumið með lögum, ef að eiginmaður hefur meira en 1500 þúsund krónur í árstekjur.

Bráðabirgðalög sem afnema frjálsan samningsrétt sjómanna hafa verið í gildi síðan 15. maí á síðasta ári, og í skúffu félagsmálaráðherra liggur frumvarp atvinnurekenda um nýja vinnulöggjöf þar sem verkamenn skulu svínbeygðir og sjálfsögðustu lýðréttindi þeirra afnumin.

## Væntanleg stéttarátök.

Nú um næstu mánaðarmót renna út gildandi kjarasamningar, þeir samningar sem tryggja áttu kaupmáttinn eins og forystumenn Alþýðusambandsins héldu fram. Mótuð hefur verið kjarakrafa um 110 þúsund króna lágmarkslaun með fullri vísitölubindingu ásamt sérkröfum verkalýðsfélaganna. Krafan um lífvænleg laun fyrir dagvinnu með fullri vísitölubindingu var samþykkt í mörgum verkalýðsfélögum og á láglaunaráðstefnu verkafólks, en forystumenn Alþýðusambandsins hunsa hana. Verkafólk mun verða að vinna g gegndarlausa yfirtíð eins og áður, þrátt fyrir að krafa ASÍ næði fram að ganga, vinnuþrældómnum skal viðhaldið eins og áður. Atvinnurekendur ganga á lagið þegar kröfur verkalýðshreyfingarinnar eru svo hógværar sem raun ber vitni, og hafa boðið kjaraskerðingu með afnámi veikindagreiðslna og lengingu dagvinnu um 40 mínútur á dag.

Þeir vita að núverandi forystumenn koma ekki til með að verða þeim skeinuhættir með þeim kröfum og baráttuaðferðum sem beitt er að verkalýðshreyfingunni. Verkalýðsstéttin er sundruð og forystumenn hennar taka ábyrga afstöðu til greiðslugetu atvinnurekenda, og ganga þannig í raun erinda þeirra innan verkalýðsstéttarinnar.

## Hvað er til ráða?

Það er öllu verkafólki ljóst, að núverandi kröfur og baráttuaðferðir verkalýðshreyfingarinnar koma ekki til með að færa okkur árangur í hagsmunabaráttunni. Alsherjarverkföllin sem farið hefur verið í undanfarin ár eru til þess eins að þreyta og svelta verkafólk til að samþykkja þá samninga sem nást

Framhald á 3. síðu



LENÍN Í FARARBRODDI STÉTTVÍSRA VERKAMANNA.

**Baráttueining**

**1. MAÍ**

Kröfuganga frá Hlemmi kl. 2

Útifundur á Hótel Íslandsplani:
RÆÐUR: Gunnar Andrésson
Rakel Pétursdóttir
Kristján Kristjánsson
Söngur: Hjördís Bergs.
INNIFUNDUR KL. 4 Í ÞJÓÐLEIKHÚSKJALLARANUM.

**ÍSLAND ÚR NATO**
**HERINN BURT!**
**LÍFVÆNLEG LAUN FYRIR 40 STUNDA VINNUVIKU**

KOMMÚNISTAFLOKKURINN. RAUÐ ÆSKA. BARÁTTUHÓPUR DAGSBRÚNARVERKAMANNA.

# Látum VSÍ ekki villa okkur sýn

Þegar vinnandi fólk er neytt út í verkfallsaðgerðir, krefst það aukins hlutar af heildarafurð þjóðarvinnunnar af allsnægtarborði þeirra manna sem vegna þjóðfélagslegrar stöðu sinnar arðræna launavinnumenn og hlaða upp hjá sér auðmagni sem þeir hafa skapað. Verkföll eru ein myndin sem baráttan milli vinnandi stétta og borgarastéttar tekur á sig og einnig gott tæki til að rannsaka, ekki vilja atvinnurekenda heldur vald þeirra, takmörk þessa valds og eðli þessara takmarka.

Í dag tala fulltrúar VSÍ um óbreytanlega vinnulaunaupphæð sem sé til skiptanna milli launþega og nú þurfi þeir bara að slást um sem stærstan part hver fyrir sig eins og óðir hundar um bein. Fyrst þeir sem lægst hafi launin verði að hækka í launaskalanum sé óhjákvæmilegt annað en hinir slaki á sínum kröfum og jafni á þann hátt launamismuninn í þjóðfélaginu. Þannig reyna þeir að sundra verkalýðsstéttinni innbyrðis þ.e. að orsök þess hve þeir lægst launuðu eru lágir sé afleiðing þess hve þeir hærra launuðu séu háir. Þeir reyna að hylma yfir móthverfuna, milli verkalýðsstéttarinnar annars vegar og borgarastéttarinnar hins vegar, því kjarabætur fyrir verkafólk eru í raun fengnar af þeim auð sem annars væri hreinn gróði atvinnurekandans. Gróða sinn vilja atvinnurekendur með engu móti láta skerða og beita því öllum brögðum til að verja hann og auka. Fulltrúar verkafólks við samningaborðið eru þeim alveg sammála hvað varðar launakökukenninguna því þeirra endurbótasinnaða afstaða felur í sér að taka afstöðu með séreignarrétti einstaklinga á atvinnutækjunum. Launajöfnunarstefna sú sem forystumenn ASÍ reka, felur þannig í sér að etja saman innbyrðis mismunandi illa launuðu vinnandi fólki og skapa sundrungu innan verkalýðsstéttarinnar, í stað þess að sameina verkafólk undir hina áratuga gömlu kröfu sína sem er sú eina sem sameinar verkalýðinn í kjarabaráttunni og raunverulega stuðlar að launajöfnuði : Lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku. Í því tilfelli má minna á að útgjöld vísitölufjölskyldunnar 1. feb. 1977 voru 150 þús. á mánuði og sú vísitala var meingölluð því inn í hana vantaði ýmsa kostnaðarliði s.s. þjónustulið og húsnæðislið.

Höfuðorsök þess hve illa er komið fyrir launafólki þ.e. að á Íslandi er eitt ódýrasta vinnuafl í V-Evrópu og vinnudagurinn hvergi jafn langur, þó Ísland sé fjórða tekjuhæsta land í heimi á mann miðað við íbúatölu, eru svik endurskoðunarsinnanna í verkalýðsforystunni hvað varðar faglegu baráttuna og svik endurskoðunarsinna sem eru allsráðandi í Alþýðubandalaginu hvað varðar pólitísku baráttuna. Kommúnistaflokkurinn m-l berst fyrir að stéttasamvinnupólitíkin verði lögð niður og á grundvelli stéttabaráttunnar verði eining verkalýðsins og starf. Baráttan stendur gegn öllum afturhalds-og íhaldssömum öflum, jafnt innan raða verkalýðsins sem utan. Látum þau ekki villa okkur af leið markvissrar framsækinnar baráttu fyrir stéttlausu þjóðfélagi.

/ghb.

LEIÐARI

# 1. maí

Fyrir 86 árum lögðu verkamenn margra landa frá sér verkfæri sín og héldu út á götur heimsborganna til að leggja áherslu á kröfur sínar og alþjóðlega samstöðu. 1. maí 1889 var voldug liðskönnun verkalýðs veraldarinnar, liðskönnun sem æ síðan hefur verið endurtekin og í hvert skipti með auknum styrk. Þá, fyrir 86 árum, var höfuðkrafa hinnar alþjóðlegu aðgerðar "lifi 8 stunda vinnudagurinn".

Fyrir byltingarbaráttu verkalýðsins varð borgarastétt flestra framþróaðra landa að hopa undan og frammi fyrir hinni voldugu baráttufylkingu hins vinnandi lýðs, sættist auðvaldið á eftirgjafir og málamiðlanir. Almennur kosningaréttur komst á, vinnudagurinn var styttur í 8 stundir og réttur til að mynda pólitísk og fagleg félög var staðfestur í fjölmörgum löndum veraldarinnar.

Hérlendis var tími verkalýðsbaráttunnar ekki enn kominn. Verkalýðsstéttin var 1889 aðeins enn í frumbernsku sinni. Hún átti sér hvorki fagleg samtök né stjórnmálaflokk. Það var ekki fyrr en 1916, sem landssamtök verkalýðsfélaga voru stofnuð. Þá var ASÍ stofnað og fyrsti stjórnmálaflokkur íslensks verkalýðs - Alþýðuflokkurinn.

Þá þegar varð baráttan fyrir styttingu vinnudagsins ein aðalkrafa verkalýðshreyfingarinnar. Og hún varð líka lögfest fyrir baráttu verkafólksins. En á hnignunartímabili íslensku verkalýðshreyfingarinnar hefur borgarastéttin hrifsað það til baka, sem hún varð að láta af hendi frammi fyrir baráttufylkingu verkalýðsins. 40 stunda vinnuvikan er aðeins orðin tóm, hún er dauður lagabókstafur, sem verkalýðsstéttin hefur ekkert gagn af. Þessi krafa, sem borin hefur verið uppi af verkalýðshreyfingunni í nærfellt heila öld um allan heim, er enn nærtæk og knýjandi á Íslandi. Hinn vinnandi lýður, sem skapar verðmæti þjóðfélagsins og ber velgengni þess og uppbyggingu á herðum sínum, getur ekki enn lifað af dagvinnulaunum sínum. Þess vegna er það brýnt nú, að sameina sem flesta um þetta brýnasta hagsmunamál verkalýðsins.

1. maí í ár er enn að nýju liðskönnun. Hann er dagur baráttunnar, þegar fylkingar hins vinnandi lýðs um alla veröldina sameinast í kröfunni um betri framtíð og réttlátara þjóðskipulag. Hérlendis er 1. maí liðskönnun undir þau kjaraátök, sem framundan eru. Verkalýðshreyfingin er forystulaus og stefnulaus. Hún megnar ekki að hrinda fram raunhæfum kjarabótum án markvissrar þátttöku hins almenna félaga. Forystan hefur svikið okkur, við verðum að taka forystuna af henni og gera verkalýðsfélögin að raunverulegum baráttutækjum sem starfa einvörðungu í hag okkar sjálfra.

Gerum 1. maí að voldugum baráttudegi frammi fyrir þeirri afturhaldsfylkingu, sem ætlar sér að skerða kjör okkar enn frekar. Sameinum sem allra flesta undir kjörorðum verkalýðsstéttarinnar:

Eining á grundvelli stéttabaráttunnar.
40 stunda vinnuvika á lífvænlegum launum.
Ísland úr NATO og herinn á brott.

TÍMASETNING

frah. af baksíðu.

og ríkisvald þeirra hafa t.d. með bráðabirgðalögunum eða með því að beita fyrir sig uppkeyptu forystunni þrengt svo samningsaðstöðu verkafólks að það hafi engin önnur úrræði til að ná fram rétti sínum. Þess vegna hvetur KFÍ sjómenn til að stöðva hvert einasta skip þegar til verkfalls kemur þrátt fyrir það að stöðvun skipa sem skráð eru á einhverjar hafnleysur eða á staði þar sem "ekki er verkfall" teljist ólögleg aðgerð

Sjómenn eru reynslunni ríkari frá verkfallinu í fyrra. Þá voru samtök þeirra sundruð. Borgararnir notfærðu sér það til að koma fram með bráðabirgðalög sem ekki einasta ákvarða kjör sjómanna samkvæmt forskrift útgerðarmanna og uppkeyptu forystunni heldur afnámu einnig, þótt tímabundið væri verkfallsrétt þeirra.

Slíkt má ekki henda aftur. Sjómenn, stöndum saman í komandi átökum. Veljum tíma sem skaðar stéttaróvininn mest. Þannig vinnst sigur.

/Rvk. 21.4. '77.

HVERNIG KEMST ÞÚ Í SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS/ML?

Miðstjórn: Pósthólf 1357. Reykjavík, einnig í síma 27810

Ritstjórn Stéttabaráttunnar og Rauða Fánans: Pósthólf 1357, sími 27810 á opnunartíma Rauðu Stjórnunnar Lindargötu 15.

Neskaupstaður: Messíana Tomasdóttir, Þiljuvöllum 38.

Snæfellsnes: Sigfús Almarsson Hellisbraut 10. Hellissandi.

Ísafjörður: Kristinn Karlsson Fjarðarstræti 7

Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Reykjarvíkurvegi 24.

Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallagötu 40c Keflavík.

# Aðgerðir Baráttueiningar

Baráttueining 1. maí 1977 gengst fyrir margháttuðum aðgerðum á alþjóðlegum baráttudegi verkalýðsstéttarinnar.

KRÖFUGANGA mun verða farin frá Hlemmi um klukkan 14, safnast verður saman ca 13:30.

ÚTIFUNDUR verður haldinn að lokinni kröfugöngunni á Hótel Íslands-planinu. Þar mun félagi Gunnar Andrésson, formaður miðstjórnar Kommúnistaflokksins halda ræðu. Rakel Pétursdóttir frá Rauðri Æsku flytur ávarp og Kristján Kristjánsson mun einnig flytja ræðu. Hjördís Bergs mun flytja baráttusöngva á fundinum.

SKEMMTIFUNDUR verður haldinn í Þjóðleikhúskjallaranum á eftir útifundinum. Hann byrjar klukkan 16. Þar gefst fundargestum tækifæri til að setjast niður og fá sér kaffi og veitingar, auk þess sem fjölbreytt dagsskrá verður. Meðal þeirra sem koma fram eru Arnþór og Gísli Helgasynir, Hjördís Bergs og Sigurður Jón Ólafsson, en sá síðastnefndi mun flytja ræðu fundarins. Auk þessa mun verða fleiri skemmtiatriði, svo sem fjöldasöngur, upplestur ofl.

MÆTUM ÖLL Í AÐGERÐIR BARÁTTUEININGAR

SÝNUM SAMSTÖÐU OG BARÁTTUHUG Á 1. MAÍ.

# Fundur með Daoud Kaloti

Síðastliðinn sunnudag, gekkst Palestínunefndin á Íslandi fyrir opinberum fundi til stuðnings frelsisbaráttu palesínsku alþýðunnar. Fundurinn var haldinn í félagsheimili stúdenta við Hringbraut og sóttu hann 40 manns. Á fundinum talaði fulltrúi Palestínsku Frelsishreyfingarinnar, PLO, Daoud Kaloti.

Barátta Palestínskrar alþýðu mun sigra.

Fundurinn hófst með því að ritari Palestínunefndarinnar, Ólafur Ingólfsson flutti tölu um þróun Palestínu og bakgrunn þeirra átaka sem átt hafa sér stað fyrir botni Miðjarðarhafs. Að því búnu talaði Daoud Kaloti fulltrúi PLO á Norðurlöndum. Hann ræddi um þróun Palestínuvandamálsins og baráttu PLO. Hann sagði frá 13. Þjóðarþingi Palestínska Þjóðarráðsins, sem haldið var í Cairo fyrir skömmu. Sagði Kaloti, að gróusögur vestrænna blaðamanna um að PLO væri að sundrast hefðu verið afhjúpaðar sem lygar og að Þjóðarþingið hefði ljóslega sýnt fram á að PLO er sameinað um grundvallarmarkmið sitt, að sameina alla palestínsku alþýðuna að baki sér, til baráttu fyrir sameinaðri, lýðræðislegri og frjálsri Palestínu. Þjóðarráðsþingið hefði sannað, sagði Kaloti, að palestínsk alþýða ætti sér aðeins einn löglegan talsmann og fulltrúa, sem væri PLO. Um markmið PLO væri palestínsk alþýða einhuga og styddi allar aðgerðir frelsissamtakanna.

Fundarmenn gerðu góðan róm að máli Kalotis og klöppuðu honum lengi lof í lófa fyrir ræðu hans. Stéttabaráttan mun birta viðtal við Kaloti í næsta tölublaði, þar sem nánar verður komið inn á vandamál palestínsku byltingarinnar og framtíðarhorfur hennar.

Þegar Kaloti hafði lokið máli sínu, svaraði hann fyrirspurnum fundargesta.

Á fundinum léku Arnþór Helgason og Kristján Jóhannsson þjóðarsöng PLO, Bilati, Bilati við góðar undirtektir fundargesta.

Þess má að lokum geta, að Kaloti fer héðan af landinu á miðvikudag, þann 27. apríl.

## 5. bindi ritverka Mao Tse-tungs

Fyrir skömmu kom á markaðinn 5. bindi ritverka Maó Tsetung formanns. 5. bindi ritverka Maó formanns var prentað í milljónaupplagi og á fjölmörgum tungumálum.

Þessi ritverk Maós eru frá tímabilinu eftir frelsun 1949 og fram eftir. Þau innihalda margar greinar um þróun landbúnaðarins og samyrkjunnar í Kína, ásamt fleiri greinum. Útkoma 5. bindisins af ritverkum Maó formanns, er af mikilli þýðingu fyrir kommúnísku hreyfinguna í öllum heiminum. Sérstaklega hefur þó útgáfa 5. bindisins þýðingu fyrir þá baráttu, sem kínversk alþýða heyr í dag gegn klíku fjórmenninganna, undir forystu Hua Kuo-feng formanns.

## *Til áskrifenda Stéttabaráttunnar*

Með þessu tvöfalda tölublaði (15/16 tbl.) STÉTTABARÁTTUNNAR á árinu, er fyrsti hluti áætlunarinnar um útgáfu vikublaðsins liðinn. Sú skipulagsáætlun sem framkvæmdanefnd miðstjórnar lagði fram hefur tekist vel, með minniháttar breytingum og að fenginni starfsreynslu. Ritnefnd mun nú taka til umræðu og draga saman þá reynslu af starfinu sem fengist hefur, í því skyni að efla blaðið inn á við, jafnt sem út á við. Ritnefnd þarfnast tíma til skipulagningar örari útgáfu blaðsins, jafnvel sem dagblaðs ef til verkfalla kemur. Áætlunin krefst fullrar virkni félaganna, svo starfskraftar allra nýtist sem best á vinnustöðvunartímabilinu við útgáfuna, í verkfallsvörslu osfrv.

Þessar eru ástæðurnar fyrir að næsta tölublað STÉTTABARÁTTUNNAR kemur ekki út fyrr en 10. maí, en í staðinn verður þetta tölublað tvöfalt, númer 15 og 16.

Ritstjórn.

# Áróður í skólum

Skólar eru eitt af mikilvægustu uppeldistækjum ríkisins. Börn byrja að ganga í skóla 6-7ára gömul, þá er farið að móta einstaklinginn, til þess að hann verði hæfari til að gegna stöðu sinni í hinu borgaralega samfélagi. Fysta skóladaginn, er byrjað á að kenna börnunum umgengnisvenjurnar. Þar er boðorð no. 1. að hlýða og hlýða gagnrýnislaust, þar er fyrsta skrefið stigið í þá átt að reyna að kæfa þörf barnanna til að spyrja um orsakir hluta á gagnrýnin hátt. Til uppfyllingar er þeim skoðunum lætt inn hjá barninu að þau verði að trúa á eitthvað, og það sem stendur börnunum næst er Kristin trú og sú stofnun sem henni fylgir Kristin kirkja. Allt er þetta gert til að festa börnin í þeim Gleipnisfjötri sem lýtur út eins og silkiband en er í rauninni sterkari en allir hlekkir. Til að króa börnin af á litlum bletti. þar sem þeim finnst að ljósið skíni. Allt hið slæma í raunveruleikanum "Guðs vilji" og vegir Guðs eru órannsakanlegir". Átta ára gömlum er byrjað að kenna börnunum Kristinfræði. "Ávaxtaðu þitt pund og þinn dollar" eins og dæmisagan um talenturnar segir okkur að gera. Eftir því sem krakkinn eldist fjölgar þeim námsgreinum sem hafa bein áhrif og sem auðveldast er að nota til áróðurs. Fyrst félagsfræði og síðan mannkynssaga. Í félagsfræði er kennt að fjölskyldan sé heilög og óbreytanleg grunneining þjóðfélagsins. Ýtt er undir þá

Framhald á 6. síðu

DAGSBRÚNARFUNDUR

frh. af baksíðu.

.álistafélag Reykjavíkur, enda veit Alþýðubandalagsforystan í Dagsbrún hverjir bandamenn hennar eru.

Þessi Dagsbrúnarfundur, eins og svo margir aðrir kenndi okkur að endurskoðunarsinnarnir standa gegn öllu því sem fært getur verkamönnum árangur í hagsmunabaráttunni, hvort sem um er að ræða hægagangsverkföll, skæruverkföll eða næturvinnubann. Þeir standa gegn því að verkalýðsfélögin verði að virkum baráttutækjum sem byggð eru á virkni verkamanna og ákvörðunartöku þeirra. Þess vegna verða verkamenn að berjast gegn endurskoðunarsinnum sem studdir eru af íhaldinu og skipta um forystu í félaginu. Fyrr verður krafa okkar um 40 stunda vinnuviku á lífvænlegum launum ekki borin fram til sigurs. Þetta er ekki spurning um menn, heldur um starfsaðferðir þeirra og pólitíska afstöðu, þar sem annars vegar endurskoðunarsinnarnir eru fulltrúar borgaralegrar uppgjafarstefnu, en kommúnistarnir og allir baráttufúsir verkamenn standa fyrir baráttustefnu, sem byggir á hagsmunum og virkni fjöldans.



# Hvað er eiginlega námsmanna barátta?

Dagana 8. og 9. apríl var haldin í Kaupmannahöfn ráðstefna á vegum SÍNE um: 1) Forsendur námsmannabaráttu, 2)stefnu og skipulag SÍNE, 3) skipulag SÍNE

Ráðstefna þessi samþykkti engar ályktanir enda valdalaus með öllu. Hins vegar mun vera ætlunin að gefa út sem flest ráðstefnugögn, t.d. fundargerð.

Á þessari ráðstefnu skýrðust línur námsmannabaráttunnar geysimikið. Segja má að tvær meginlínur hafi komið í ljós, þótt ýmis blæbrigði séu að vísu á annarri línunni sérstaklega. Fyrir það er ráðstefnan mjög merkur viðburður. Reyndar væri hún merkur viðburður einvörðungu fyrir hve stór hópur sótti hana og kynntist fjölda fólks og skoðunum þess. Líklega á þessarar ráðstefnu eftir að verða minnst lengi.

Áður en lengra er haldið er rétt að kynna stuttlega eitt þeirra skjala sem fyrir ráðstefnunni lá: Úrdrætti úr 3 skýrslum íslenskra félagsfræðinga, um uppruna stúdenta. Hún dregur þau í dagsljósið að um einn þriðji hluti íslenskra stúdenta kemur úr stéttum borgara og háskólamenntaðra manna þótt þessar stéttir séu aðeins um 5-7% þjóðarinnar. Úr lægri lögum verkalýðsstéttar og sjómannastéttar komi aftur á móti einungis einn fjórði hluti stúdentanna þótt í þessum stéttum séu 55-60% þjóðarinnar. Þetta þýðir, að 7% verkamannabarna, sem urðu 20 ára árið 1970 hafi lokið stúdentsprófi en 54% barna úr fyrrnefnda hópnum.

Eru námsmenn sérstök stétt? Hvað ræður stéttarstöðu námsmanna? Í 3ja tbl. 1. árg. SÍNE-blaðsins ritar Magnús Sæmundsson grein um stéttarstöðu námsmanna. Ég rek hér þau atriði greinarinnar sem svara þessum spurningum "Námsmenn mynda ekki stétt, hins vegar sérstakt félagslegt lag í þjóðfélaginu, sem í sér hefur fólk úr öllum stéttum." Stéttarstaða námsmanna ræðst af þrem þáttum: stéttaruppruna, aðstöðu á námstíma og framtíðarstöðu. "Stéttaruppruni getur haft þýðingu en hefur samt tiltölulega lítil áhrif á ákvörðun um stéttarstöðu námsmanna. Flestir námsmenn flytja að heiman og fá sjálfstæðan efnahag er þeir hefja nám." "En það er ekki síst aðstaðan eftir að námi lýkur sem skiptir máli...." "Flestir námsmenn vita nokkurnveginn í hvaða störf og hvaða stöðu þeir fara. Hin dæmigerðu menntamannastörf eru millistéttarstörf, og flestir námsmenn verða hluti millistéttarinnar."

"Lítill hluti námsmanna tilheyrir borgarastéttinni einnig á meðan námi stendur. Það eru þeir sem vegna uppruna eða sambanda hafa sitt á hreinu varðandi framtíðina." Sumir þeirra eru hreinlega eigendur eða meðeigendur atvinnufyrirtækja. Hversu margir þeir námsmenn eru hefi ég ekki neina tölu um.

En hvaða ályktanir má draga af þessu fyrir baráttu námsmanna? Einfaldlega að ekki eiga allir námsmenn sameiginlegra hagsmuna í kjaramálum að gæta gagnvart borgarastéttinni og ríkisvaldi hennar fyrst til eru námsmenn sem tilheyra borgarastéttinni. Það er í hæsta máta ósennilegt að þeim verði fylkt gegn sjálfum sér.

En eiga námsmenn yfirleitt einhverra sérstakra hagsmuna að gæta fram yfir annað fólk? Sumir halda því fullum fetum fram að námsmenn skuli einbeita sér að hagsmunabaráttu verkalýðs eða hella sér út í "fagrýni". Tek ég hér eina tilvitnun: "Útgangspunktur sósíalista í baráttu námsmanna hlýtur að vera sá, að ekki sé hægt að berjast á grundvelli hagsmuna námsmanna sem slíkra, heldur verði ávalt að skilgreina þessa hagsmuni á forsendum annars hvors meginafls þjóðfélagsins, launavinnu eða auðmagns. Vinstri stúdentar við H.Í. hafa mótað þá stefnu að námsmönnum beri fyrst og fremst að berjast fyrir gagnrýnu námi í þágu verkalýðs og aðra þætti stjórnlistar verði að miða við það." (Gestur Guðmundsson í blaðinu HANDAUR, útg. af ísl. í Árósum, undirstrikun mín). Nokkur blæbrigði voru á þessari meginskoðun að námsmenn hefðu ekki sjálfstæðra hagsmuna að gæta. Þannig var lögð mismikil áhersla á gildi fagrýni.

Í heild má taka þessa línu Gests, trotskista og ýmissa annarra saman í einn punkt: Ná skal huglægri samstöðu með verkalýð á grundvelli samúðar og stuðnings námsmanna við verkalýðsbaráttu.

Marx-lenínistar telja að slík samúð nái skammt ein sér. Vitaskuld er hún oft fyrir hendi hjá námsfólki úr verkalýðsstétt en hætt er við að skilningur námsfólks með uppruna sinn úr hópi menntamanna og smáborgara verði ærið misjafn þótt slíkur skilningur sé vissulega til hjá ýmsum og engin ástæða sé til að gera lítið úr honum. Marx-lenínistar telja að samstaða verkamanna og námsmanna (undanskilinn sa hluti námsmanna sem ekki byggir afkomu sína á lánum og/eða launavinnu) náist best með því að námsmenn berjist við ríkisvald borgarastéttarinnar um lánakjör sín, á grundvelli eigin hagsmuna að sjálfsögðu. Verkamenn eiga, einsog allir vita, undir högg að sækja við auðherrana um kjör sín. Þannig berjast verkamenn og námsmenn við sameiginlegan óvin. Þannig er samstaða þeirra hlutlæg þótt mikið skorti á huglæga samstöðu nú.

Það er mikilvægt að námsmenn veiti verkafólki aðstoð í verkfallsbaráttu með hverjum þeim hætti, sem þeim er tiltækur, t.d. með stöðu verkfallsvakta. "Kærkomið" tækifæri til þess verður líklega í vor og sumar. Með þessu næst betur huglæg samstaða. En námsmenn eiga líka beinna hlutlægra hagsmuna að gæta: Ef verkamenn vinna einhverja sigra á hinum sameiginlega óvini veikist óvinurinn og verður auðveldari viðfangs fyrir námsmenn.

Lína marx-lenínista átti meira fylgi að fagna og kom það í ljós í hópunum. Trotskistar

Framhald á bls. 7




Kommúníski verkalýðsflokkurinn í Danmörku.

Í vetur var stofnaður nýr stjórnmálaflokkur í Danmörku. Flestum sem fylgst hafa með dönskum stjórnmálum finnst kannski að dani hafi ekki vantað stjórnmálaflokk. Þar eru nú á þingi um 10 flokkar, allt frá hinum Moskvusinnaða DKP til flokks Glistrups. Hinn nýi danski stjórnmálaflokkur Kommunistiske Arbejder Partiet (KAP), er hins vegar ólíkur öllum þessum flokkum að því leyti að hann byggir starf sitt á marx-lenínismanum og er eini danski stjórnmálaflokkurinn sem heils hugar stefnir að verkalýðsvöldum í Danmörku

Flokkurinn gefur út blað sem heitir Arbejderavisen (Verkalýðsblaðið). Kemur það út vikulega og hefur nú verið hafin mikil herferð til að kynna blaðið. Hvar sem farið er eftir götum í Kaupmannahöfn og víða annars staðar í Danmörku gefur að líta veggspjöld með mynd af Arbejderavisen og áskorun til fólks að gerast áskrifendur.

# Námsmenn erlendis búast til átaka

Daganna 8. og 9 apríl s.l. boðaði Kaupmannahafnardeild SÍNE til ráðstefnu um kjaramál námsmanna og félagsmál SÍNE. Á ráðstefnuna mættu 80 manns úr 18 SÍNE deildum í 8 löndum. Stéttabaráttan snéri sér til formanns SÍNE, Guðmundar Sæmundssonar, sem fór á ráðstefnuna sem fulltrúi SÍNE stjórnar, og spurði hann hvað markverðast hefði gerst.

- Markverðast þótti mér, hve mikill áhugi ríkir nú innan SÍNE sem fram kom í þessari mjög góðu mætingu. Það er ljóst, að félagar SÍNE búa sig nú til mjög harðrar baráttu gegn gegndarlausum árásum ríkisvaldsins. Samkomulagstilraunir og sáttastefna hafa kollsiglt sig og sýnt fram á algjöran ósigur sinn. Við námsmenn erum smátt og smátt að gera okkur grein fyrir því að það er hin óvægna barátta ein sem dugir.

"Skemmtiatriði" á ráðstefnunni

-Voru einhverjar breytingar gerðar á stefnu SÍNE frá því sem verið hefur?

-Nei Ráðstefnan hafði ekki formlegt vald til stefnumótunar, en því er ekki að leyna, að sá andi sem þar ríkti, var okkur baráttusinnum mikill stuðningur við að keyra fram stefnu okkar.

- hvað um andstöðuhópana innan SÍNE, svonefnda "Sentrista" og trotskíista?

- Þessir hópar voru svo óssammála innbyrðis og málflutningur þeirra var svo fáránlegur, að oft á tíðum mátti ætla að sumir þeirra væru ráðnir af aðstandendum ráðstefnunnartil að sjá um skemmtiatriði fremur en að þeir væru þarna til að ræða vandamál baráttunnar í dag. Af þessum hópum stafar engin hætta, meðan þeir haga sér svona, en auðvitað má ekki búast við að það verði að eilífu.

Framhald baráttunnar.

- Hvert verður áframhald ráðstefnunnar?

- Nú þarf fyrst og fremst að færa þær umræður, sem þarna fóru fram út í hinar einstöku deildir. Í sumar verða svo haldnar tvær ráðstefnur hér heima, önnur um innri mál SÍNE, skipulagsmál og útgáfumál, hin er hefðbundið sumarþing, þar sem stefna sambandsins er mótuð og lagðar fram tillögur til haustfunda, sem eru aðalfundir sambandsins og æðsta vald. Ætlunin er að á næstu haustfundum verði kosið um stefnuskrá fyrir SÍNE, og má búast við miklum átökum um hana. Nú, auk þess er það ætlun okkar að taka virkan þátt í baráttunni í sumar fyrir afnámi vísitölubindingar á námslán, sem gera námslán að einum verstu okurlánum í landinu, og baráttunni fyrir nýjum úthlutunarreglum þar sem tekið verður tillit til framfærsluþunga og upphæð námslána verði nægileg til framfærslu meðan á námi stendur. Í dag er ástandið þannig, að ungt fólk hrekst frá námi, annað styttir nám sitt og enn annað leggur ekki út í langskólanám.

- Að lokum Guðmundur, hvernig telur þú réttast að haga baráttunni hér heima til að árangur náist?

- Í haust var stofnuð Baráttuhreyfing námsmanna. Hún vann ágætt starf, þrátt fyrir ýmis smærri og stærri mistök. t.d. tel ég að hún hafi ásamt SÍNE átt meginþátt í að undirbúa þann jarðveg, sem síðan varð til þess að Stúdentaráð HÍ yfirgaf uppgjafarstefnuna í lánamálunum. En aðstæðurnar eru aðrar nú. Það sem brýnast er í dag er að stofna til breiðrar samfylkingar námsmanna í framhaldsnámi um lánamálin. Undir mikilvægustu kröfunum námsmannabaráttunnar eru í dag mannabaráttunnar er í dag hægt að fylkja miklum meirihluta allra námsmanna.

Helstu kröfur sem við verðum að fylkja okkur undir eru: Vísitölubinding námslana verði afnumin: Námslán nægi öllu námsfólki til framfærslu: Tillit til fjölskyldustærða verði aftur tekið inn: Allir framhalds-og sérskolar fái fullan rétt til námslána, og kjörorð baráttunnar verð alltaf að vera Jafnrétti til náms: , Berjumst gegn kjaraskeringum ríkisvaldsins:

Á þann hátt leggjum við bæði áherslu á markmið okkar og þá einu leið sem við teljum færa til að ná þeim þ.e. baráttuna.




Vilhjálmur snýr baki við réttlátum kröfum námsmanna.

ÁRÓÐUR Í SKÓLUM.

frh. af s.2.

firru, að staður konunnar se inni á heimilinu, því henni sé eðlilegra að ala upp börn. Einnig er því lætt að nemendum að ríkið sé hlutlaus aðili í þjóðfélaginu og þar af leiðandi líka í deilum hinna stríðandi stétta.

Mannkynssagan er með betri áróðursvopnum. Þar er svo gott að hagræða staðreyndum án þess að ljúga beinlínis.

Mannkynssaga handa byrjendum: eftir Þ.S.

Alexander hjó Gordíonshnút og Cæsar sagði "teningunum er kastað", Loðvík 14. sagði "Ríkið það er ég", sá 15. sagði "það lafir meðan ég lifi" sá 16. gerðist lásasmiður.. Líkt þessu er sagan kennd. Þessir hlutir dynja á börnum og unglingum í kannske 13 til 14 vetur, þannig að hversu meinlausir sem hlutirnir kunna að virðast, þá hljóta þeir að síast inn í nemendur og skólakerfið í heild sinni að virka sem hreinn heilaþvottur.

# Uppbygging í þágu verkalýðsins Frá sósíaliskum ríkjum

## Kína

Alþýðukommúnan Chen Xi
AÐ HAFA HRÍSGRJÓN AÐ LEIÐARSTEINI.

Þann fyrsta júlí í fyrra, á afmælisdegi Kommúnistaflokks Kína, heimsótti íslensk vináttusendinefnd, sem þá var stödd í Kína í boði Vináttustofnunarinnar við erlend lönd í Peking, alþýðukommúnuna Chen Xi. Kommúna þessi var stofnsett árið 1958 og þróaðist upp úr samhjálparsveitunum sem flokkurinn hafði beitt sér fyrir að yrðu stofnaðar um allt landið. Chen Xi kommúnan er staðsett rétt utan við milljónaborgina Shanghai í Cha Ting héraði. Þar búa tæplega 23 þúsund manns eða 5650 fjölskyldur. Þeim er skipt niður í 17 vinnufylki og hverju vinnufylki er skipt niður í vinnusveitir og eru þær alls 139. 16 vinnufylkjanna leggja stund á landbúnað, bæði akuryrkju og kvikfjárrækt, en eitt vinnufylkjanna stundar fiskirækt í síkjunum sem lögð hafa verið til áveitu.
Ræktað land er 2003 hektarar og aðalframleiðsla kommúnunnar er hrísgrjón og bómull. En auk þess er þarna ávaxtarækt, grænmetisrækt og kvikfjárrækt, aðallega svín og fiðurfé, að ógleymdri fiskiræktinni, sem minnst var á áður.

Þegar flokkurinn hófst handa um framkvæmd samyrkjunnar í landbúnaðinum árið 1957, voru settar á fót samhjálparsveitir smábænda um allt land. Þessar samhjálparsveitir þróuðust síðan upp í það sem nú er nefnt alþýðukommúnan.
Nýtt eignarform og framleiðsluform hafði litið dagsins ljós í kínverskum landbúnaði. Hin ævaforna asíska framleiðsluskipan og smáhokrið, sem einkenndi kínverska landbúnaðinn um aldaraðir, lagðist nú niður. Í stað þess kom sameign bændanna, en hún er skref í þá átt að afnema einkaeignina í landbúnaðinum á sama hátt og þegar hefur verið gert í iðnaðinum. Maó formaður markaði þá braut, sem landbúnaðurinn hefur fylgt æ síðan í Kína. Hann sagði, að þar sem Kína væri vanþróað landbúnaðarland yrði að vinda bráðan bug að iðnvæðingu þess. Það skyldi gert með því að líta á landbúnaðinn sem grundvöllinn, en á iðnaðinn sem leiðarsteininn í framleiðslunni.
Á sama hátt leiðbeindi hann bændunum og sagði að hrísgrjónin væru þeirra leiðarsteinn, en að jafnframt yrði að tryggja alhliða þróun kínversks landbúnaðar.
Chen Xi kommúnan hefur dyggilega fylgt þessum leiðbeiningum Maó formanns og einnig fetað í fótspor hinnar annáluðu alþýðukommúnu í Tachai, sem nú er orðin fordæmi í landbúnaðarframleiðslu kínverja og uppbyggingu sósíalismans. Þannig er lögð aðaláherslan á matvælaframleiðslu og bómullarframleiðslu í Chen Xi. En jafnframt henni, er kommunan búin að koma á fót eigin verksmiðjum og ýmis konar þjónustustofnunum, svo sem spítala, barnaheimili osfrv.

### Framleiðslan fer sífellt vaxandi.

Á þeim 18 árum, sem Chen Xi alþýðukommúnan hefur starfað, hefur framleiðslan vaxið gífurlega. Undanfarin 14 ár hefur uppskera hrísgrjóna verið samfellt velheppnuð og árið 1975 var hún 12.756 kg. á hvern hektara lands. Þessi nýting landsins er 2.4 sinnum meiri en hún var árið 1949, þegar Kína varð frjálst og 3.6 sinnum meiri en hún var árið 1957, en þá var hafist handa um að reisa alþýðukommúnurnar. Þetta sýnir glögglega gildi kommúnunnar og samyrkjunnar í kínverskum landbúnaði. Framleiðslan hefur vaxið ótrúlega hratt og velferð fólksins hækkað.

Sé sami samanburður gerður á bómullarframleiðslunni, fengust 840 kg. bómullar af hverjum hektara lands árið 1975. En það er 3.2 sinnum meira en var árið 1957 og 7.5 sinnum meira en árið 1949.

Svín kommúnunnar voru um 40 þúsund árið 1975, en það er 6 sinnum meira en árið 1957 og 12 sinnum meira en 1949. Að sama skapi hefur vélvæðing landbúnaðarins aukist, en auk réttrar pólitískrar stefnu, er hún forsendan fyrir velgengni kínversks landbúnaðar.

Nú er vélamiðstöð í Chen Xi sem hefur á að skipa 171 traktor af ýmsum gerðum og stærðum, auk þess sem vélar eru notaðar til sáningar og við plægingu. Áveitustörf eru að stórum hluta unnin með véldælum og vélvatnsmiðlurum.

### Lífskjörin hafa stórbatnað.

Hin alhliða þróun landbúnaðarins hefur tryggt alþýðu Chen Xi kommúnunnar betri lífskjör. Auk matvælaframleiðslunnar hefur kommúnan byggt verkfæraverksmiðju, húsgagnaverksmiðju og girðingarverksmiðja Einnig hefur verið stofnsett kynbótastöð fyrir svínarækt. Kommúnan sér fólkinu fyrir sjúkraþjónustu, bæði eru hér berfættir læknar í hverri vinnusveit, en það er fólk sem fengið hefur allnokkra læknismenntun og getur starfað að fyrirbyggjandi aðgerðum, ónæmisaðgerðum og hreinlætisaðgerðum, auk þess sem þeir ráða bót á algengustu sjúkdómunum. Börnin sækja skóla innan kommúnunnar og í Chen Xi eru meira að segja hærri gagnfræðaskólar. Æskan fer til háskólanáms en hverfur síðan aftur heim til fyrri starfa í landbúnaðinum. Auk þess hafa háskólastúdentar komið til Chen Xi og tekið upp landbúnaðarstörf við hlið bændanna. Kommúnan hefur eigin útvarpsstöð, bókasafn . kvikmyndaklúbb og áróðurs- og listahóp, sem bændurnir mynda sjálfir.
Laun bænda í Kína eru víðast hvar lægri en verkamanna. En þó hafa kjörin stórbatnað frá frelsun 1949. Árið 1975 voru meðaltekjur fjölskyldu 840 yuan á ári. En það er 2 sinnum hærra en var árið 1957 og 5.5 sinnum hærra en var árið 1949. Kommúnan leggur fé til hliðar sem notað er til ýmis konar þjónustu og trygginga, svo fyllilega sé gætt að heilsu og lífskjörum íbúanna.

### Sósíalisminn tryggir fólkinu betri lífskjör.

Það er enginn vafi á því, hver orsökin fyrir hinum stórbættu lífskjörum alþýðunnar í Chen Xi er. Enn koma árvisst hinar ógnarlegu plágur, sem fyrr á öldum eyddu heil héruð og strádrápu íbúana. Þurrkar, flóð og hungursneyðir í kjölfar þeirra voru árviss atburður í Kína. Nú hefur samhjálpin og hin rétta pólitíska stefna Kínverska Kommúnistaflokksins undir forystu Maó formanns og síðar arftaka hans Hua Kuo feng, brotið þessa óvini alþýðunnar á bak aftur og gert alþýðunni kleyft að fyrirbyggja náttúruógnirnar.
Áður fýrr lutu kínverskir bændur lénsherrunum og voru upp á náð þeirra komnir. Þeir áttu ekki landið og voru ofurseldir gífurlegri skattpíningu og hryllilegri meðferð.
Nú er kínversk alþýða til borga og sveita sjálfs sinn herra, eigandi landsins og skattfrjáls. Enginn setur henni skilyrði eða skapar henni ömurleg lífskjör framar, hún er sjálfri sér ráðandi og skapar sína framtíð sjálf. Afturhaldsmenn innan Kína og þeir sem velja brautir kapitalismans, eins og Liu Sjaó Sji, Lín Piao og klíka fjórmenninganna, munu aldrei líta þann dag, er kínversk alþýða lætur rétt sinn til að lifa og starfa af hendi. Sósíalisminn og alræði öreiganna hefur tryggt henni góð lífskjör og mannlegt hlutskipti, hún mun halda ótrauð áfram á braut stéttabaráttu og sósíalisma, uns stéttir og stéttaskipting hefur verið afmáð.



Í 25 ár hefur Alþýðulýðveldið Kína tekið stórstígum framförum í átt til sósíalisma. Tachaikommúnan er eitt skýrasta dæmið, sem sínir að stefna Kínverska Kommúnistaflokksins, að treysta á eigin krafta, virkja fjöldann í starfi, og auka vinnuafköstin, því það er eina leiðin sem færir okkur fram á við. Á meðfylgjandi mynd er ritari í einni af deildum flokksins í fararbroddi fyrir þeirri stefnu, að breyta bröttum hlíðum í gróskumikil jarðræktarlönd.

## N-Kórea

Verkamenn og tæknifræðingar í Kumsong Traktora-verksmiðjunni hafa hrint af stað herferð til að framleiða þúsundir traktora, 2700 útsæðisvélar fyrir hrísakra 408700 varahluti og vélarhluta af 154 gerðum. Þetta risavaxna verkefni á að vera tilbúið fyrir vorsáningartímann og það er ekki einsdæmi, að verkamenn í Norður Kóreu setji sér slík verkefni, til að efla landbúnaðinn í landinu.

### Eflum landbúnaðinn - byggjum sósíalismann.

Í Taen Rafvéla-verksmiðjunni hafa verkamennirnir einnig gert mikið átak, til að tryggja landbúnaðinum nægar vélar fyrir vorsáninguna. Á sama tíma framleiða þeir háþróaðar rafvélar fyrir iðnað og samgöngur. Markmið þeirra er ekki sett lágt: á fyrstu þremur mánuðunum ætla þeir sér að framleiða 200 áveitudælur og næstu 6 mánuðum rafmótora og vatnsveitumiðlara fyrir áveitukerfi akranna. Vélar verksmiðjunar ganga nú fyrir fullu afli og geysileg aukning hefur orðið á framleiðslu áveitubúnaðar af ýmsu tagi.
Í Pyongyang Vatnsveituverksmiðjunni, hefur sams konar herferð verið hleypt af stokkunum. Meðlimir rafvélavinnusveitarinnar í verksmiðjunni hafa sýnt byltingarsinnaðan eldmóð sinn og traust á eigin frumkvæði, með því að framleiða tvöfalt fleiri vélar en mánaðarleg áætlun þeirra er.

### Norður Kórea - sósíalískt land.

Undir forystu Kim Il-sung, forseta landsins, hefur Kóreönsk alþýða gert hluti sem nálgast hreint og beint kraftaverk. Eftir síðari heimsstyrjöldina var landið fátækt og niðurnýtt, eftir yfirráð japönsku fasistanna þar. Eftir 5 ára uppbyggingarstarf lögðu bandarísku heimsvaldasinnarnir landið aftur í rúst. höfuðborgin Pyongyang var gersamlega sundurtætt eftir sprengjuárásir ameríkananna.
Eftir Kóreustríðið, hefur landið verið byggt upp að nýju og iðnaður hefur tekið geysilegum framförum og landbúnaðurinn verið skipulagður sem samvinnuframleiðsla. Slíkir ávinningar væru óhugsandi án þess, að marxismanum-lenínismanum væri fylgt í starfi og stefnu. N-Kórea er sósíalískt land, sem hefur byggt á eigin afli í hinum risavöxnu átökum við tamningu náttúruaflanna og eyðileggingu heimsvaldastefnunnar.



Undir leiðsögn Koreanska Verkamannaflokksins var landið iðnvætt á 14. árum. Hér eru verkamenn að vinna við spennubreytistöðina Chollima Chongjin, til að tryggja óhindraða rafmagnsflutninga til hinna ýmsu deilda í iðnaðinum.





Í Albaníu ræður verkafók ríkjum. Hér ræða verkamenn nýju 5. ára áætlunina 1976-1980.

# Kambodía

Eftir að stríðinu í Kambódíu lauk, hefur landið tekið stakkaskiptum. Þær þúsundir manna, sem hrakist höfðu burt frá heimabyggð sinni, undan ógnum stríðsins, hafa nú snúið heim til sín og hafið uppbyggingarstarfið af fullum krafti. Lon Nol klíkan sem áður ríkti með tilstyrk bandarísku heimsvaldasinnanna, skildi við landið í megnustu óreiðu. Framleiðslan var stöðnuð, landbúnaður í megnasta ólestri og hundruð þúsunda voru atvinnulausir. Þessir ólánssömu menn, sem misst höfðu atvinnu sína og heimili vegna árásarstríðs bandarísku heimsvaldastefnunnar, lifðu á gjafakorni frá Bandaríkjunum og mynduðu stærri betlaraher, en Kambódía hafði nokkru sinni augum litið í margra alda sögu sinni. En eftir að Lýðræðislega lýðveldið Kambódía var sett á stofn, að afloknu stríðinu hefur margt gerbreyst.

## Áveitur eru mikilvægar

Meðfram Þjóðarhraðbrautinni hafa mörg ný hús risið upp við hlið hinna gömlu hefðbundnu staura húsa, sem þar hafa áveitukerfis. Áætlunin um að byggja áveitukerfið, með fjölmörgum síkjum og þéttriðnu neti af skurðum til að tryggja ökrunum vatn, hefur þegar verið framkvæmd að þriðjungi. Ætlunin er að veita vatni á eina og hálfa milljón hektara lands. Hrísgrjónasvæðin, eins og Xpeu Tangsakang, Rohan og Soaidonkeo, hafa nú byggt upp akra sem gefa af sér uppskeru tvívegis á ári. Þetta er ávöxtur áveitustarfsins, sem alþýðan hefur einbeitt sér að.

## Alhliða framför í Kambódíu.

Framfarirnar í þjóðlífi Kambódískrar alþýðu má merkja á mörgum öðrum sviðum. Það er ekki aðeins landbúnaðurinn sem hefur tekið stökk fram á við, svo er einnig um iðnað og þjónustu. Nærfellt öll iðnaðarmannvirki hafa nú verið endurreist og verið tekin í notkun. Flest þeirra voru í rústum vegna stríðsins og hins slæma efnahagsástands á tímum Lon Nol stjórnarinnar. Enn er þó margt ógert á sviði iðnaðaruppbyggingarinnar. Útflutingur á gúmmí-crepe var til dæmis um 20.000 tonn árið 1976. Handiðnaður og aðrar faggreinar sem varða beinlínis hag alþýðunnar, svo sem vefnaður, framleiðsla handklæða, moskítóneta, soya sósu, fiskisósu ofl. hafa verið endurreistar. Og nú hefur meira að segja sérhvert samyrkjubú sína eigin læknamiðstöð. Allur aðbúnaður að heilsu og hagsmunum fólksins hefur gjörbreyst eftir valdatöku rauðu Khmeranna. Sigur kambódísku alþýðunnar yfir bandarísku heimsvaldastefnunni hefur skapað forsendurnar fyrir nýju og betra lífi fyrir milljónir alþýðumanna og kvenna.

staðið um langan aldur. Þessi hús eru höfð til reiðu fyrir þá, sem áður bjuggu í fátækrahverfunum í Pnom Penh og í öðrum borgum landsins. Nú hefur þetta fólk snúið aftur til landsbyggðarinnar, til að taka þátt í uppbyggingu landbúnaðarins. Hvarvetna má sjá hópa af vinnandi fólki, sumir allt að eitt hundrað manns, sem eru að byggja upp áveitur eða sinna öðrum störfum á hrísgrjónaökrunum. "Þar sem er vatn, þar eru líka hrísgrjón" segja íbúar Kambódíu. Þess vegna vinna allir að uppbyggingu



Þjóðfrelsishermenn standa vörð um flugvöll í Phnom Penh eftir frelsun landsins.

# Albanía

Í fyrsta skipti í sögunni hefur Albanía framleitt eigið stál. Þetta er gert í stáliðjuverinu í Elbasan, sem enn er ekki fullbyggt. 26. apríl hófu fyrstu stóru stálbræðsluofnarnir að framleiða stál og þann dag var haldin hátíð verkafólksins, sem afhenti fyrstu stálklumpana leiðtogum flokksins og ríkisins.

## Kínversk aðstoð og samvinna.

Pali Miska, iðnaðar- og námumálaráðherra, setti stáliðjuverið af stað við hátíðlega athöfn. Í ræðu sinni fagnaði hann þessum mikla sigri albanskrar verkalýðsstéttar, sem var rétt fyrir 1. maí hátíðahöldin í fyrra, árið sem 35 ára afmæli Flokks Vinnunnar var haldið hátíðlegt. Pali Miska þakkaði kínverskum sérfræðingum fyrir veitta aðstoð, en þeir höfðu starfað með albönskum kollegum sínum og albönsku verkafólki að þessum framkvæmdum. Fyrir þremur árum var Albanía vanþróað land, sem gat ekki einu sinni séð íbúum sínum fyrir brýnustu nauðþurftum, sagði Miska, en undir leiðsögn Flokks Vinnunnar og marxism-ans-lenínismans, hefur landinu verið breytt í þróað iðnríki með vélvæddan landbúnað. Við höfum byggt stóriðjuver, sem eru fyllilega sambærileg við það besta í veröldinni. Þessi stálbræðsluiðja hefur verið byggð með aðstoð kínverska alþýðulýðveldisins og hún hefur orðið til að styrkja enn frekar vináttu landanna tveggja, flokkanna og alþýðunnar í Kína og Albaníu.

## Úrtölur Sovéskra sérfræðinga.

Þegar hugmyndin um bygginu stálbræðsluvers í Albaníu var fyrst rædd, reyndu sovéskir sérfræðingar að telja úr albönum. Þeir fullyrtu að það myndi vera gersamlega óhugsandi að byggja stálbræðsluver, sem ynni úr hráefnum landsins sjálfs og að tækniknnátta albana væri önóg til að stunda slíka framleiðslu. Þeir ætluðust til, að albanir seldu þeim notin af járnnámunum og sendu hrájárn til Tékkóslóvakíu, þar sem best væri að byggja stálbræðsluver. Þeir ætluðu að kaupa hrájárnið af albönum á lágu verði og selja þeim fullunnið stál á háu verði, á sama hátt og þeir hafa gert við önnur austantjaldslönd og lönd þriðja heimsins.

Þegar Alþýðulýðveldið Kína veitti albönum aðstoð til að byggja stáliðjuverið, reyndu sovétmenn á allan hátt að eyðileggja vináttu þessara tveggja þjóða, en sérhver tilraun þeirra varð aðeins til að styrkja sambönd albana og kínverja, sem reist eru á grunni alþjóðahyggju öreiganna.

## Mikill sigur fyrir Albaníu.

Bygging stáliðjuversins í Elbasan er mikill sigur fyrir Albaníu. Hið fyrrum fátæka land, er nú í fyrsta skipti orðið sjálfu sér nógt á flestum sviðum og framleiðsla stáls styrkir þetta efnahagslega sjálfstæði landsins enn frekar. Þótt Albanía hafi hingað til sigrast á óvinum sínum bæði erlendum og innlendum, vofir hættan á árás Sovétríkjanna yfir landinu. En albönsk alþýða er reiðubúin til að verja land sitt og ríki. Enginn óvinur er svo máttugur, að hann geti bugað frelsisþrá og baráttuvilja hinnar hugprúðu alþýðu Albaníu. Hún er vopnuð og vitandi um sögulegt hlutverk verkalýðsins og hún mun standa órofa vörð um alræði öreiganna í Albaníu, frelsi sitt og réttindi.

# Víetnam

Þann 30. apríl 1975 héldu hersveitir FNL, Þjóðfrelsisfylkingar Vietnam inn í Saigon Áratuga yfirráðum heimsvaldasinna var lokið, Vietnam var frelsað. Allt frá því 1930 þegar verkamannaflokkur Vietnam var stofnaður, hefur barátta staðið óslitið í landinu. Viet Minh hreyfingin sem laut forystu Ho Chi Mihn, var sigursæl í baráttunni gegn Frökkum og síðar japönsku innrásarherjunum. Eftir að japanir höfðu verið sigraðir hófst enn barátta gegn frönsku nýlenduherrunum og þegar þeir höfðu beðið lægri hlut við Dien Bien Phu 1954, blandaði bandaríska heimsvaldastefnan sér í málin. En þessi mesta stríðsvél allra tíma stóðst hinni hetjulegu vietnömsku alþýðu ekki snúning. Einnig hún varð að beygja sig fyrir frelsisvilja vietnamskrar alþýðu. Nú eru liðin tvö ár frá því vietnömsk alþýða vann þennan sigur, sem skapaði tímamót ekki aðeins í landinu sjálfu, heldur einnig í gervallri andheimsvaldabaráttunni í veröldinni. Alls staðar hefur alþýða þriðja heimsins lært af baráttu vietnama og tileinkað sér þær baráttuaðferðir sem leiddu til sigurs yfir bandarísku heimsvaldastefnunni. Vietnam hefur breyst í mörgum atriðum frá því landið var frelsað fyrir tveim árum. Gevsivíðlend landsvæði hafa verið endurheimt og hreinsuð af jarðsprengjum. Þess vegna verður barátta okk-

Alþýðan hefur nú næga atvinnu og þær þúsundir sem áður lifðu á gjafakorni frá Bandaríkjunum, eða tóku þátt í þeirri spillingu sem þreifst í kringum herinn, hafa nú snúið til framleiðslustarfa að nýju. Undir forystu Verkamannflokks Vietnam mun alþýða landsins byggja upp lýðræði og sósíalisma. Á tveggja ára afmæli Vietnömsku byltingarinnar fögnum við þessum mikilsverða sigri, sem raunverulega varð vendipunktur í þróun frelsis- og byltingarbaráttu alþýðu og verkalýðs um alla veröld.



Ho Chi Minh leiðtogi Víetnamskrar alþýðu um áratugi.

# Kvennabarátta er stéttabarátta

Hvers vegna er kvennabarátta stéttabarátta? Eru ekki allar konur kúgaðar jafnt af karlmönnum, án tillits til stéttarstöðu? Hvernig kemur stéttabaráttan frelsun kvenna á einhvern hátt við?

Ef við athugum aðeins sögu mannkynsins, þá kemur í ljós að staða kvenna er mjög mismunandi eftir þjóðfélagsgerðum. Kúgun kvenn í auðvaldsþjóðfélaginu á rót sína að rekja til séreignarréttarins.

Í ættsveitarskipulaginu voru hvorki stéttir né arðrán. Verkskipting kynjanna mótaðist af því, að konan var bundnari yfir barneignum og komu því heimilisstörfin í hennar hlut, en karlmaðurinn sá um veiðarnar. Akuryrkja kom í verkahring konunnar og eftir því sem hún þróaðist varð staða konunnar í þjóðfélaginu mikilvægari. Hvort um sig var hæstráðandi á sínu sviði, en framleiðslan var sameign. Með tilkomu kvikfjárræktar breyttist mikilvægi framleiðslugreina. Framleiðslan varð meiri en sem nam þörfum fjölskyldunnar, verslun hófst og búfé varð "skiptimyntin". Eignarhald breyttist og hver fékk eignarhald á þeim verkfærum sem hann vann með og sinni framleiðslu. Störf karlmannsins urðu mikilvægari í þjóðfélaginu Með tilkomu séreigna karlmannsins var komin upp ósættanleg móthverfa við sameign ættsveitarinnar, móthverfa sem við berjumst við enn í dag Áður átti konan ein sannanlega börnin, ættir voru raktar í kvenlegg og erfðir héldust innan ættbálksins. Einkaeignin kom þarna í algjörri andstöðu. Til að viðhalda einkaeigninni urðu erfðir að ganga í einkaeign. Karlmaðurinn átti framleiðslutækin og því urðu að koma til sannanlegir afkomendur og erfingjar hans. Því breyttust hjúskaparhættir svo öruggara gæti verið um réttmæta erfingja að eignum föðurins. Móðurréttinum var kollvarpað og föðurrétturinn tekinn upp. Engels sagði: "Kollvörpun móðurréttarins var heimssögulegur ósigur kvenþjóðarinnar. Karlmaðurin tók við stjórntaumunum, líka á heimilinu, konan lækkaði í tign, hún varð ambátt fýsna hans og einbert tæki til barneigna".

Gildi einstaklingsins í auðvaldsþjóðfélaginu fer eftir eignarhaldi hans. Það er ekki tilviljun að saman fer aukið fjárræði konunnar og aukin virðing hennar óg áhrif í þjóðfélaginu. Kona sem vinnur ekki úti er efnahagslega ósjálfstæð og háð manni sínum. Það gerir konuna lítilsgildari í félags og stjórnmálalífi. Auðvaldið þarf á að halda vinnuafli, sem það getur kallað út á uppgangstímun og losað sig við þegar að kreppir. Þetta vinnuafl er konur. Ódýrt vinnuafl sem litlu þarf til að kosta, enda er barnaheimilum og mötuneytum haldið í lágmarki. Hin efnahagslegu skilyrði, en ekki hugmyndafræðin eru grundvöllurinn fyrir kúgun kvenna. Hugmyndafræðin er aðeins tæki til að viðhalda hinni efnahagslegu kúgun.

Konur í verkalýðsstétt verða að vinna tvöfalda vinnu við barnauppeldi og heimilisstörfin En konur úr verkalýðsstétt sjá sem hluti stéttarinnar hver grunvallarorsök kúgunarinnar er. Það er borgarastéttin sem stétt, en ekki sem karlmenn, sem býður konum upp á lág og léleg laun og slæma atvinnu. Það er ekki karlmaðurinn sem á sökina á því að fjölskyldan getur vart lifað af launum sínum.

Það er ríkisvald borgarastéttarinnar en ekki karlar úr verkalýðsstétt, sem gera ekkert í að fullnægja dagheimilisþörfinni og reka harðastan áróður fyrir óáreittri stöðu konunnar. Við konur í verkalýðsstétt þurfum að berjast á fleiri en einum vígstöðvum. Við þurfum að berjast gegn auðstéttinni og við þurfum að berjast fyrir samstöðu og skilningi karlmanna og breyttum viðhorfum okkar sjálfra. Karlar og konur úr verkalýðsstétt hafa nákvæmlega sömu hagsmuna að gæta. Verkakonur hafa því gífurlega stórt verkefni á höndum að gera kynsystrum sínum og stéttarbræðrum ljóst, hverjir hafa hág af að kúga konur og vanmeta þær. Við verkakonur erum þær konur sem mest eru kúgaðar í dag. Öfugt við konur í borgara og smáborgarastétt höfum við enga sjálfstæða stöðu eða einkaeign til að missa. Með karlmönnum eigin stéttar stöndum við í beinni andstöður við auðvaldið og með sósíalísku byltyngunni höfum við engu að tapa en allt að vinna.

# Kjarakröfur BSRB-baráttan fyrir þeim

framhald af baksíðu.

valdið, leyfir verkfallsboðun með 15 daga fyrirvara. Innan 10 daga eftir þá boðun, verður sáttanefnd að leggja fram sáttatillögu og getur frestað vinnustöðvun um aðra 15 daga. Á þeim tíma eiga félagsmenn að greiða atkvæði um sáttatillöguna og til að fella hana, þarf meira en 50% kjörsókn og meiri hluti gegn henni, annars verður hún sjálfkrafa að kjarasamningi Til verkfalls kæmi hinsvegar ef hún yrði felld, þá getur sáttanefnd lagt fram aðra miðlun, sem fengi sömu afgreiðslu í kosningum. Af þessu má sjá hversu "takmarkaður" þessi "verkfallsréttur" er og til þess að möguleiki sé á að beita honum þyrftir að skipuleggja mikla áróðursherferð meðal félagsmanna. Stuðla að þeirri fjöldavirkni, sem hingað til hefur ekki verið aðall skriffinna forystu BSRB. Enda er ekki við því að búast, að raunverulegur verkfallsréttur fengist baráttulaust í samningum við ríkisvald borgarastéttarinnar.

Stöndum fast á kröfunum.

Kjarakröfur BSRB, eru algjört lágmark, sem ekki má kvika frá í komandi átökum. En til að ná þeim fram verða almennir félagsmenn að halda vöku sinni, greiða atkvæði um sáttatillögur og ýta á vinnufélaga sína með að mæta á kjörstað. Sá árstími sem samningarnir fara fram á, er sérstaklega óheppilegur. Ef opinberum starfsmönnum tekst að komast í gegnum þær hindranir sem eru í vegi fyrir verkfalli, þá hafa þeir í höndum beitt vopn, sem er lömun mikils hluta ríkiskerfis borgarastéttarinnar. Auk þess verða ríkis-og bæjarstarfsmenn að vera á verði, gegn sundrunartilraunum ríkisvaldsins og borgarastéttarinnar í heild, sem mun reyna að sundra þeim innbyrðis og æsa aðra launþega gegn þeim, í krafti áróðurstækja sinna. Ekki síður verða þeir að vera á varðbergi gegn undanslætti forystunnar og halda kjarakröfunum til streitu.

20. apríl. '77.




Meðfylgjandi línurit og myndtexti er tekið úr Ásgarði, blaði BSRB: "Línuritið sýnir skiptingu ríkisstarfsmanna og starfsmanna Reykjavíkurborgar í launaflokka. Þessar upplýsingar ná til 6303 ríkisstarfsmanna og 2187 borgarstarfsmanna og ættu að gefa talsverða hugmynd um raunverulega skiptingu. Kemur m.a. í ljós að um 86% opinberra starfsmanna eru í 4. - 15. launaflokki og hafa því í mars 1977 laun frá 77-125 þúsund, og einnig sést að um 10% opinberra starfsmanna eru í 16. - 20. launaflokki, en þar er kaup nú frá 115-150 þúsund. Heildarfjöldi þessara ríkisstarfsmanna og borgarstarfsmanna er 8490. Fjölda í hverjum launaflokki má lesa á mælikvarða á lóðrétta ásnum til vinstri."

# Um meinta sögufölsun maóista

Afturhaldið í landinu, hvort heldur það birtist í mynd Morgunblaðsins, Þjóðviljans eða Neista á sér eitt sameiginlegt áhugamál og það er að sverta sósíalismann. Einkum hefur alþýðulýðveldið Kína orðið fyrir barðinu á hatursáróðri þessara afla. Þau hafa reynt að notfæra sér þá hörðu hugmyndafræðilegu og pólitísku baráttu sem háð hefur verið í Kína síðustu misseri, með dæmalausri spámennskum og dylgjum. Hér kemur lítil saga um starfsaðferðir þeirra:

Það ber við um þessar mundir, að háttvís og heiðarlegur "sentristi" (á leið upp framabraut alþýðubandalagsins) var að skoða rit nokkurt sem ber nafn er útleggst á íslensku "Kína í myndum". Þarf ekki að orðlengja það frekar, nema hvað hann af annálaðri skarpskyggni sinni rekur augun í mynd nokkra frá útför formannsins í Kína, þar sem forystan og fjöldin hylla minningu hins látna leiðtoga. Af fyrrnefndri skarpskyggni sinni sér hann einnig að nokkur skörð hafa myndast í hóp hinna fræknu foringja. Já, það er ekki um að villast MAÓISTAR ERU AÐ FALSA SÖGUNA! Litla sentristahjartað tekur á rás, roði hleypur í kinnarnar og glampi kemur í augun, þegar honum verður hugsað til þess hversu kærkomið tækifæri hefur svo að segja fallið í hendur hans. til þess að ná sér niðri á helvítis maóistunum. Framhaldið þarf ekkið að orðlengja næsta morgun getur á að líta stórt og fagurt plakat í hjarta stúdentakjallarans: SÖGU FÖLSUN MAÓISTA!

Við þessa voluðu vesalinga, sem gjarnan vilja skreyta hatta sína rósum segjum við: Rannsakið fyrst, talið svo. Ef þið hefðuð athugað málin betur þá sæjuð þið kannski að það er ekkert leyndarmál í Kína, að glæpaklíka 4 menninganna hefur verið þurkuð út af myndum frá útför Mao tse-tungs. Það er ekki einusinni opinbert leyndarmál, heldur í samræmi við opinbera yfirlýsingu. Eða haldið þið virkilega að kínverjar séu svo vitlausir að "falsa" myndir sem áður hafa birst í milljónaupplagi?!

Að lokum þetta: Íslenskir marxistar-lenínistar eru ávalt reiðubúnir til rökræðna um pólitík, en skítkast af þessu tagi er einungis til þess fallið að beina athygli fólks frá hinum raunverulegu vandamálum og afhjúpar best borgaralegt rotnunareðli þeirra sem fyrir því standa.

# Notum bestu vopnin

frh. af forsíðu.

fram. Þau skaða atvinnurekendur aðeins lítillega, þeir hafa margra mánaða undirbúningstíma áður en þau skella á, þannig að þau koma út eins og sumarfrí verkafólksins. En það eru til aðrar baráttuaðferðir en allsherjarverkföllin, aðferðir sem byggjast á því að treysta á verkafólkið sjálft. Þessi aðferð eru skæruverkföllin sem lama einstaka þætti framleiðslunnar og koma atvinnurekendum í opna skjöldu.

Þau gera það að verkum að stéttaróvinurinn veit aldrei hvar höggið mun ríða næst. En ASÍ forystan treystir ekki á fjöldann, þess vegna er skæruverkföllum ekki beitt. Þvert á móti er ASÍ forystan hrædd við virkni verkafólksins. Þeir snúast gegn hugmyndum um nýjar baráttuaðferðir í hagsmunabaráttunni á fundum verkalýðsfélaganna og svíkja og snúast gegn kröfum sem ganga í þá átt að verkafólk fái lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku. Þess vegna verður barátta okkar við borgarastéttina og ríkisvald hennar og hins vegar við talsmenn hennar sem eru í forystu innan verkalýðssamtaka okkar. Við baráttufúsir verkamenn verðum að virkja stéttarbræður til baráttu í komandi verkfalli fyrir kröfunni um lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku og endurreisn verkfallsvopnsins sem baráttutækis í höndum okkar. Það eru frumskilyrðin fyrir því að hægt sé að endurreisa verkalýðsfélögin

# Fréttaskeiti frá Helljssandi

Atvinna hér hefur verið næg, þó aflinn sé heldur rír. Yfirvinna verkafólks hefur verið mikil, enda er það núorðið alger forsenda þess að fólk geti lifað af launum sínum. Verkalýðsforustan hefur brugðist í þessu máli sem og öðrum. Gott dæmi um það er krafa sú sem sett er á oddinn í núverandi samningamakki, þ.e. 100þús.kr. krafam, meðan krafa þorra verkafólks er lýfvænleg laun fyrir 40stunda vinnuviku.

Verkalýðsfélagið Aftureldíng þann 1. maí í tilefnis þess og dagsins. verður 55ára í júlí og er fyrirhugaður baráttufundur Kosning stjórnar verkalýðsfélagsinsfer fram á aðalfundi þess í Röst 24/4. Aðeins einn listi hefur komið fram, þ.e. listi stjórnar og trúnaðarráðs.

Stuðningsdeild KFÍ/ML á Hellissandi hvetur verkafólk til að standa saman sem órofa heild í væntandegum stéttaátökum.

Baráttukveðjur
Stuðningsdeild KFÍ/ML
Hellissandi.

# Hvað er heimsvaldastefna

Oftast er orðið heimsvaldastefna eða imperíalismi einsog hún heitir á erlendum málum sett í samband við pólitísk yfirráð. En efnahagsleg yfirráð auðhringa og heimsvaldalanda eru miklu skýrari dæmi um heimsvaldastefnu.
Heimsvaldastefnan er ekkert annað en visst sögulegt skeið. Lenín ritaði árið 1916 bókina "Heimsvaldastefnan - hæsta stig auðvaldsins". Þessi undirtitill, hæsta stig auðvaldsins, þýðir að heimsvaldastefnan tekur við af frjálstri samkeppni. Einokun óx uppúr samþjöppun framleiðslunnar þegar hún var komin á mjög hátt þróunarstig. Einokun hefur leitt af sér að veigamiklumhráefnalindum hefur verið rænt handa undirstöðuatvinnuvegum auðvaldsþjóðfélagsins. Einokun hefur þróast í bönkum. Einokun hefur sprottið upp úr nýlendustefnunni.
Það er augljóst að stór einokunarfyrirtæki eru þess eðlis að einstaklingur getur ekki átt þau og rekið einsog lítið fyrirtæki. Þannig verða einkaatvinnureksturinn og einkaeignafyrirkomulagið umbúðir sem samsvara ekki innihaldinu lengur. Þessar umbúðir hljóta að fúna. Heimsvaldastefnan eða einokunarfyrirkomulagið er brú til þess tíma er verkalýðurinn tekur völdin í verksmiðjunum og í þjóðfélaginu í heild. Það hentar ekki lengur að einstaklingar eigi fyfirtæki þegar framleiðslan er orðin jafn sérhæfð og nú á dögum.
Þessi grein rekur fyrst nokkur einkenni heimsvaldastefnunnar almennt, síðan er gerð grein fyrir þeim einkennum heimsvaldastefnunnar sem finnast á Íslandi eða hjá íslensku auðvaldi, í þriðja lagi um samskipti auðhringa og verkalýðshreyfingar og að lokum um erlenda fjölþjóðahringa á Íslandi. Heimilda er getið í upphafi eða við lok hvers kafla.

**I. Almenn einkenni heimsvaldastefnunnar.**

**1. Samþjöppun framleiðslu og fjármagns hefur náð svo háu þróunarstigi að hún hefur skapað einokun sem ræður úrslitum í efnahagslífinu.**

Uppúr 1870 mátti heita að einokun væri komin upp í ýmsum helstu löndum Evrópu, svo s ı Englandi og Frakklandi, og í Bandaríkjunum. Einokunin er einkum með tvennu móti: Í fyrsta lagi ræður eitthvert fyrirtæki að mestu eða öllu yfir einhverri atvinnugrein og smáfyrirtæki hafa þar litla möguleika. Gott dæmi um þetta eru flugfélögin íslensku sem sameinuðust fyrir skemmstu og kremja nú sundur litlu fyrirtækin eða yfirtaka þau. Í öðru lagi hefur sama fyrirtækið yfirráð yfir mörgum sviðum atvinnulífs í einhverju landi, landshluta eða bæjarfélagi. Dæmi: KEA á Akureyri og reyndar mörg önnur kaupfélög úti á landi, sennilega flest þeirra. Slíkt fyrirtæki sakar ekki þótt það tapi á einni atvinnugrein, það getur borgað tapið upp með hinum. Reyndar er mjög algengt að fyrirtæki, sem starfa á mörgum sviðum, undirbjóði ef þau eru að hasla sér völl á einhverju nýju sviði. Til þessa geta þau notað gróðann af öðrum sviðum og eftir stuttan tíma tekst þeim að drepa af sér þau fyrirtæki sem aðeins starfa á þessu eina sviði. Dæmi: Hljómplötur voru í fyrravetur nokkrum tugum króna ódýrari í hljómdeild KEA á Akureyri en í hinum hljómplötubúðunum, en hljómdeild KEA var ný stofnsett. Þegar tekist hefur að útrýma litlu fyrirtækjunum er verðið svo hækkað.

Einokunarsamsteypurnar hafa oft verulegt samstarf sín á milli, svosem Sölumiðstöð Hraðfrystihúsanna (SH) og SÍS á bandaríska fiskmarkaðinum. Samsteypurnar koma sér saman um söluskilmála, þær ákveða verð. Þær deila gróðanum á milli einstakra fyrirtækja o.s.frv. Til að útiloka minni fyrirtækin er ýmsum aðferðum beitt. Eru þær helstu taldar upp hér á eftir:

1. Útilokun frá hráefnum.
2. Samningar við verkalýðsfélög um að verkafólk megi aðeins vinna hjá hringnum.
3. Hindrun aðflutninga.
4. Hindrun afurðasölu.
5. Samningar við kaupendur um að skipta eingöngu við samsteypurnar.
6. Undirboð. Gróði á einum stað eða á einu sviði er notaður til að greiða niður vöruna á nýjum markaði meðan verið er að ganga að smáfyrirtækjunum dauðum.
7. Hindrun lánveitinga. - sjá lið 2 um samruna banka- og iðnaðarfjármagns.
8. Viðskiptabann.

**2. Samruni bankafjármagns og iðnaðarfjármagns og myndun fjármálafáveldis á grundvelli þessa "fjármálaauðmagns"**

Aðal og frumverkefni bankanna er miðlun fjár. Þeir breyta óvirku fjármagni þ.e. sem eigandinn þarf ekki að nota einhverra hluta vegna um lengri eða skemmri tíma, í virkt fjármagn, þ.e. fjárfestingu sem gefur af sér arð. Eftir því sem bankar stækka og gleypa fleiri litla sparisjóði verða þeir voldugri og ráða meiru um hvað gert er í atvinnulífinu. Bankinn getur ráðið því gersamlega hvaða atvinnugrein eða hvaða atvinnurekenda er veitt fyrirgreiðsla um fé. M.a. þess vegna stofnaði samvinnuhreyfingin



Aukin hernaðarumsvið stórveldanna þíðir aukin stríðshætta.

banka, Samvinnubankann, til þess að standa betur að vígi í samkeppninni um fjármagn til aukinnar fjárfestingar. Persónutengsl bankastjóra og iðnrekenda eru algeng.

Með þessum háttum hefur öll fjármálastjórn færst yfir á fárra hendur og hópurinn þrengist sífellt.

**3. Fjármagnsútflutningur verður mikilvægt atriði í stað vöruútflutnings.**

Vöruútflutningur var einkenni gamla auðvaldsins þegar frjáls samkeppni var alls ráðandi. Útflutningur fjármagns er orðið einkenni nútíma kapítalisma þar sem einokun drottnar. Aukning verslunar innanlands og einkum þó á alþjóðlegum vettvangi hefur orðið geypileg síðan auðvaldsskipulagið komst á. Þegar gróði einokunarhringa er orðinn mikill innanlands verður




Bandaríkin og Sovétríkin berjast um yfirráðin í Afríku.

gróðinn best hagnýttur með fjárfestingu í öðrum löndum sem skemmra eru á veg komin. Í þeim löndum eru gróðahorfurnar ar oftast mjög miklar. Þar er lítið um fjármagn til samkeppni, hráefnakostnaður lítill, jarðnæði ódýrt og laun lág.

**4. Myndun alþjóðlegra einokunarsambanda auðvaldsins sem skipta heiminum á milli sín efnahagslega, öðru nafni fjölþjóðahringa.**

Einokunarbandalög, atvinnurekendasamsteypur, sölusamlög og hringar skipta markaðinum á milli sín, formlega og óformlega og hrifsa til sín að meira eða minna leyti alger yfirráð yfir framleiðslu viðkomandi lands.

Um 1900 höfðu t.d. tvö rafmagnsfyrirtæki nálega skipt heiminum á milli sín, hið bandaríska General Electric og hið þýska AEG.

**5. Lokið er skiptingu á löndum jarðarinnar, pólitískt og efnahagslega séð, á milli helstu auðvaldsríkjanna.**

Á 18.du og 19.du öld kepptust ýmis þróuðustu löndin við að leggja undir sig önnur landssvæði. Hraðstigust varð þessi útþensla þó eftir 1870 eftir að einokunarhringar fóru að verða allsráðandi í efnahagslífi heimsins. Fyrir fyrri heimsstyrjöldina var svo komið að helstu auðvaldsríkin höfðu lagt undir sig heiminn, England lagði undir sig stóra hluta Afríku og alla Ástralíu, Rússland lagði undir sig Síberíu og fleiri landssvæði í Asíu, Frakkar stór landssvæði í Afríku, Bandaríkin þöndust út og ýmis önnur lönd áttu minni svæði. Þessi 4 lönd höfðu verið þróuðust iðnríkja í lok 19du aldar, en nú þróaðist Þýskaland hratt. Þýskaland vildi eignast áhrifasvæði eða nýlendur og það var ekki hægt nema með því móti að fara í stríð. Og það gerði Þýskaland.

Það sem knýr á um nýlenduvinninga eru hagsmunir fjármagnsútflytjenda. Fyrirtæki vill fjárfesta í einhverju landi og til þess að vera öruggt um að fjármagninu sé ekki á glæ kastað þarf helst að hafa einhver ítök í stjórn landsins. Nú til dags er lítið um nýlendur a.m.k. formlega. Mest er um að viss landssvæði séu á pólitískum áhrifasvæðum stærstu auðvaldslandanna, einkum risaveldanna Sovét og Bandaríkjanna. Þó verður Grænland hiklaust að teljast nýlenda Dana, efnahagslega séð, þótt dönsk stjórnvöld kalli landið " hluta af Danmörku ". Pólitískt áhrifasvæði Sovét er t.d. A-Evrópa og Kúpa. Og Sovétríkin reyna að seilast til áhrifa í Afríku og víðar. USA hefur t.d. mikil pólitísk áhrif í S-Ameríku. Þegar Allende-stjórnin var með sín þjóðnýtingaráform í Chile óttuðust margir bandarískir auðhringar um sinn hag svo að CIA sá þann kostinn vænstan að stuðla að með ýmsum hætti valdaráni hersins.

( Fyrsti kafli er byggður á bók Leníns, heimsvaldastefnunni )

Framhald greinarinnar verður birt á næstunni.

---

framhald af síðu 6

HVAÐ ER EIGINLEGA NÁMSMANNABARÁTTA

og þeirra förunautar voru þó fjölmargir og fjölskrúðugir. En framkoma þeirra í upphafi ráðstefnunnar (ræðuhöldin), jók ekki fylgi þeirra. Strax að lokinni ráðstefnunni fóru að heyrast ýmis konar lygar, vafalaust ættaðar frá þeim. M.a. að marx-lenínistar hafi verið búnir að skipuleggja nákvæmlega að tala lítið í upphafi ráðstefnunnar en verða síðan fundarritarar hópanna og gera fundargerð eftir eigin höfði og koma síðan í veg fyrir umræður að loknu hópstarfi. Með lygum um marx-lenínista og aðra á ráðstefnunni ættla þeir að reyna að breiða yfir það hversu litlu fylgi þeir áttu að fagna á ráðstefnunni. Ég bið fólk að vera vel vakandi fyrir lygum þeirra ef þeir halda þeim áfram.

Að lokum vil ég þakka Kaupmannahafnardeild SÍNE og Námsmannafélaginu í Höfn fyrir frábært undirbúningsstarf fyrir ráðstefnuna: Má margt af starfi Kaupmannahafnarbúanna læra og hafa til hliðsjónar við undirbúning svona ráðstefnu

/láj

Þessi grein birtist hér lítið eitt stitt

---




HARKALEGAR DEILUR Í UPPSIGLINGU MILLI SVÍÞJÓÐAR OG USSR VEGNA ÚTÞENSLUSTEFNU USSR.

Árið 1958 var undirritaður Genfar-sáttmáli þar sem hin svonefnda miðlínuregla var endanlega ákveðin. Þá voru Sovétríkin fylgjandi þessari grundvallarreglu og undirrituðu sáttmálann. En á þeim tíma sem liðin er síðan, hefur afstaða Sovétríkjanna breyst Og er það orsök deilunnar sem upphófst um markalínur milli Noregs og Sovétríkjanna á Barentshafi, þess vegna eru nú deilur í uppsiglingu milli Svíþjóðar og Sovétríkjanna um markalínur á Eystrasalti.

EBE-löndin hafa þegar tekið upp 200 mílna efnahagslögsögu. Sovétríkin hafa gert slíkt hið sama. Og nú hefur Svíþjóð ákveðið að færa fiskveiðilögsöguna út í 200 mílur. En það hefur ekki mætt neinni hrifningu af hálfu Sovétríkjanna. Pólska blaðið Trybuna Ludu, skrifar, að ekkert af Eystrasaltsríkjunum geti horft rólega uppá útfærslu sænsku fiskveiðilögsögunnar " Þetta er þjóðréttarspurning, þar sem um er að ræða siglingafrelsið, og ekki þýðir að meðhöndla af neinni linkind ". Hin einhliða útfærsla Sovétríkjanna í 200 mílna efnahagslögsögu, minnist Trybuna Ludu ekki einu orði á. Markmiðið er augljóst, pólska flokksmálgagnið kemur fram sem talsmaður um áhugamál Sovétríkjanna.

Um hvað snýst deilan í raun og veru? Sovétríkin hafa sett fram tillögu þess efnis að markalínan taki mið af austurströnd Svíþjóðar. Svíþjóð hefur aftur á móti sett fram tillögu, sem tekur mið af austurströnd Gotlandseyjar ( sjá mynd ). En Sovétríkin segja bara hreint og beint, að svíar megi ekki líta á Gotland sem hluta af Svíþjóð!!

Á Barentshafi er yfirstandandi deila af svipuðu tagi. Þar hafa Sovétríkin notað herskipayfirburði sína til að þvinga kröfum sínum í gegn. Sovétríkin hafa til þessa haldið 3 flugskeytaæfingar þar sem skotmörkin voru á norsku hafsvæði. Aukin harka í deilunni, mun að öllum líkindum einnig eiga sér stað á Eystrasalti þegar Svíþjóð mun reyna að halda um það bil 1000 fiskveiðiskipum frá A- Þýskalandi, Póllandi og Sovétríkjunum fyrir utan sænsku fiskveiðilögsöguna.

Kommúnistaflokkur Svíþjóðar (m-l) hefur sett fram eftirfarandi kröfur til sænsku ríkisstjórnarinnar í þessu sambandi

1) Að stækkun fiskveiði lögsögunar verði framfylgt og hún virt af Sovétríkjunum, Póllandi og A-Þýskalandi.
2) Engar málamiðlanir um miðjulínuregluna er hægt að samþykkja. Þetta er krafa sem snertir þjóðarréttin og er viðurkent af miklum meirihluta ríkja veraldar.
3) Útfærslunni á fiskveiðilögsögunni verður um leið að fylgja krafa um 200 mílna efnahagslögsögu, sem Sovétríkin krefjast nú sjálf eins og önnur lönd í kringum okkur.





Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
15/16tbl. 6. árg. 26/4 1977

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.




# Stéttsvikarar í samtökum sjómanna



Ætli Pétur hafi lekið í moggann?

Stéttsvikarar í samtökum sjómanna.

Kjararáðstefna Sjómannasambandsins (SSÍ) sem haldin var 3. apríl s.l. mótaði kröfur sambandsins í komandi samningum. Á ráðstefnunni þar sem meira en helmingur fulltrúa voru starfandi sjómenn í helgarfríi, var samþykkt að leita skyldi allra ráða til að ná samstöðu með Farmanna og fiskimannasambandinu (FFSÍ) um kröfugerð og aðgerðir. Til að hindra ekki að slíkt samstarf gæti náðst ákvað ráðstefnan að birta ekki kjarakröfur sambandsins í fjölmiðlum fyrr en eftir fund FFSÍ sem haldinn verður 24. apríl n.k. Virðist sem visst svigrúm sé í kröfugerð SSÍ til að auðvelda FFSÍ að ganga til samstarfs.

Nauðsyn á samstöðu.

Þessi áhersla sem starfandi sjómenn leggja á að ná samstöðu allra sjómanna byggist á reynslu þeirra af kjaradeilum og verkföllum undanfarinna ára. Sundrungin hefur einungis veikt baráttuaðstöðu þeirra og verið vatn á myllu útgerðarmanna.

En það eru ekki allir forystumenn sjómanna sem eru fylgjandi því að slík samstaða náist. Ingólfur Stefánsson framkvæmdastjóri FFSÍ hefur lagst hart gegn öllum slíkum hugmyndum og viss öfl innan Sjómannasambandsins, sem umfram allt vilja sundra samtökum sjómanna, hafa einnig staðið í vegi fyrir sameiningu. Þeir menn hafa nú gengið það langt að brjóta gegn viljayfirlýsingu ráðstefnunnar um að ekki skyldi birta kjarakröfurnar í fjölmiðlum fyrr en eftir 24. apríl.

Sundrungarstarf.

Í Morgunblaðinu, laugardaginn 16. apríl s.l., birtist frétt um það hverjar væru kjarakröfur Sjómannasambandsins í komandi samningum. Skv. heimildum Stéttabaráttunnar er þessi grein þó röng í vissum atriðum og er þar getið um kröfur sem ekki hafa verið samþykktar á ráðstefnunni og verða því ekki lagðar fram. Birting þessara Morgunblaðsgreinar er sundrungarstarf sem gæti orðið til að torvelda samstarfið við FFSÍ og er auk þess til þess fallin að auðvelda borgurunum að byggja upp áróður gegn sjómönnum og kröfum þeirra. Slíkur áróður er þegar farinn að birtast í borgarablöðunum þar sem talað er um að kjarakröfur Sjómannasambandsins gangi í þá átt að krefjast mestrar hækkunar fyrir þá sem mest hafa launin. Og þetta er sett fram áður en sambandið hefur einu sinni gert kröfur sínar opinberar.

Ekki er vitað hvaðan Morgunblaðinu bárust "upplýsingar" í grein sína en ljóst virðist að þar muni vera um að ræða einhvern (einhverja) úr forystuliði sjómanna.

Sjómenn geta ekki treyst slíkum forystumönnum sem bregðast trausti félaga sinna og sjómanna um allt land, sem vilja hefja einarða baráttu fyrir kröfum sínum. Slíkir menn eru svikarar við stétt sína og er það því skylda sjómanna að afhjúpa þá og gera brottræka úr samtökum sínum. /Rvík. 21.4. '77.

# Kjarakröfur BSRB og baráttan fyrir þeim

Í byrjun apríl síðastliðins, sagði BSRB upp öllum kjarasamningum sínum og lagði fram kröfugerð fyrir nýjan aðalkjarasamning. Nú í maí byrjun munu svo félögin leggja fram kröfur um röðun í launaflokka. Nýi kjarasamningurinn mun, samkvæmt lögum gilda til tveggja ára. Meginatriði kröfugerðarinnar, eru um beinar launahækkanir og verðlagsbætur.

Mest hækkun fyrir fjölmennustu flokkana

Í kröfugerðinni er áfram gert ráð fyrir 31 launaflokki, með þrem þrepum í hverjum. Laun í 1. þrepi 1. flokks yrðu, samkvæmt kröfunum 115 þús. kr. á mánuði, fyrsta þrep í öðrum flokki yrði 5 þús. kr. hærra og þannig er gert ráð fyrir að flokkarnir hækki koll af kolli um 5 þús. kr. Yrðu þá greidd 265 þús. kr. í fyrsta þrepi 31. flokks. Annað þrep allra flokka yrði 10 þús. kr. hærra en fyrsta þrep og það þriðja 15 þús. kr. hærra. Þannig yrðu laun í 3. þrepi 1. flokks, kr. 130 þús. kr. Þessi skipan, ef hún kæmist á, á að verða til að leiðrétta launastigann, í því að hann yrði stighækkandi. Þær mundu þýða 45-52% hækkun launa í þeim flokkum sem fjölmennastir eru, lægri og miðju flokkum stigans. Í hærri flokkunum yrði hækkunin hins vegar minni. Launakröfur þessar miða að, að rétta launastigann af (en hann var farinn að síga niður í miðju), en gera svo að auki ráð fyrir 40 þús. kr. hækkun í öllum flokkum ofan á leiðréttan launastiga. Ef launakröfur þessar næðu fram að ganga, yrðu greidd, svokölluð lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku í flokk B11 og öllum þar fyrir ofan. Hinir fjölmennu flokkar B9 og B10 væru mjög nálægt því marki, sem mundi þýða að rúmlega 70% meðlima BSRB nytu slíkra kjara.

Hækkun á yfirvinnukaup-vísitala mánaðarlega.

Auk ofangreindra krafna, er gerð krafa um að tímakaup í yfirvinnu verði 1,25% af mánaðarkaupi í efsta þrepi þess launaflokks, sem viðkomandi er í, en var áður 1% af mánaðarlaunum í því þrepi sem sá hinn sami var í. Einnig er mjög mikilvæg krafa um verðlagsbætur prósent vís á öll laun, reiknaðar mánaðarlega af "ófalsaðri" vísitölu. Fleiri jákvæð atriði eru í kröfunum, sem ekki verða rakin hér, en félagar í aðildarfélögum BSRB eru hvattir til að kynna sér kröfurnar vel og gera sínar athugasemdir við þær. Þær birtust í 2 tbl. Ásgarðs nú í apríl.

"Verkfallsrétturinn" í framkvæmd

En hverjar eru líkurnar á að þessar kröfur nái fram að ganga? Gangur mála verður sá, að þann 1. júní fær svonefnd sáttanefnd deiluna til meðferðar. Eldri kjarasamningar renna út þann 1. júlí; en ef ekki hefur verið samið þá, verður unnið eftir þonum áfram nema gert verði verkfall, en að því er ekki auðhlaupið. Hinn "takmarkaði verkfallsréttur" sem forysta BSRB kýs að kalla svo og "samdi" um við ríkis-

# Tímasetning verkfalla sjómanna

Tímasetning verkfalla.

Stéttabaráttan hefur undanfarið tekið fyrir málefni sjómanna í fjölda greina. Enda er full ástæða til, þar sem fáir eða engir hópar launþega hafa sætt jafn grófum árásum af hendi ríkisvaldsins og þeir. Í þessum greinum hefur m.a. verið sýnt fram á að í fyrra var jafnaðartímakaup fyrir 84 stunda vinnuviku á stórum togurum að meðaltali um 504 krónur og fór allt niður í 375 krónur á lægstu togurunum. Raunveruleikinn stangast því algerlega á við æsifregnir borgarblaðanna um geysihá laun sjómanna. Ljóst er að mestum hluta tekna sjómanna er aflað með óhóflega löngum vinnudegi, en slíkt gildir raunar um all flest landverkafólk. Krafan um lífvænleg laun fyrir dagvinnu er því einnig krafa sjómanna.

Í síðasta blaði var vikið að því að verkföll sjómanna á fiskiskipaflotanum nú í maílok eða júníbyrjun væru ekki vænleg til árangurs í kjarabaráttu sjómanna. Rökstuðningurinn á bak við þessa fullyrðingu er sá að á þessum tíma eru veiðar með altreglegasta móti og í rauninni aðeins humarvertíðin í algleymingi. Slík tímasetning á verkfalli væri því mest í hag LÍÚ og kærkomin fyrir útgerðarmenn.

Að áliti ýmissa róttæklinga er þessi skoðun ásamt höfnun KFÍ



Sjómenn vita að verkföll eru máttlaus ef ekki er valinn réttur tími.

á því að lögleg allsherjarverkföll undir stjórn ASÍ forystunnar séu eina leiðin í kjarabaráttu verkafólks, staðfesting á því að flokkurinn sé "verkalýðsfjandsamlegur". Þannig fullyrða þeir að því er virðist án nokkurra raka að t.d. megi alls ekki letja sjómenn til þátttöku í allsherjarverkfalli, þótt tímasetning þess sé röng, þar sem slíkt valdi aðeins klofningi í röðum verkalýðsins. Það virðist ljóst að þetta "forystulið verkalýðsins", róttæklingarnir séu svo ungir að árum að þeir muna ekki eftir svikum ASÍ broddanna við sjómenn vorið 1974. Það gera sjómenn hins vegar og treysta því ekki þeirri sömu forystu fyrir hagsmunum sínum.

KFÍ hefur mótað þá stefnu að í kjarabaráttunni beri að beita löglegum verkföllum svo lengi sem þau þjóna tilgangi fyrir alþýðufólk. Hins vegar beri að beita ólöglegum aðgerðum sem samstaða er um meðal verkafólksins þegar atvinnurekendur

# DAGSBRÚNARFUNDUR

Síðast liðinn sunnudag 24. apríl var haldinn fjölmennur Dagsbrúnarfundur til að veita verkfallsheimild til stjórnar félagsins. Margir tóku til máls og margar tillögur voru fluttar. Formaður og varaformaður Dagsbrúnar töluðu þó meira en helming af fundartímanum, en samt tóku 15 verkamenn til máls.

Tvær línur komu fram um hvaða baráttuaðferðum skyldi beitt í komandi stéttaátökum. Lagt var til að Dagsbrún beitti aðferðum skæruverkfalla í stað allsherjarverkfalls og treysti þannig á verkamennina í félaginu. Einnig var lagt til, að frá og með 24. apríl yrði sett á yfirvinnubann, til að koma í veg fyrir að atvinnurekendur gætu búið sig undir verkföllin. Þessar baráttuaðferðir áttu greinilega hljómgrunn meðal margra verkamanna á fundinum.

Hins vegar voru tillögur endurskoðunarsinnanna í Alþýðubandalaginu sem ráð stjórninni í Dagsbrún. Þær ganga út á það, að beita sömu baráttuaðferðum og verkalýðshreyfingin hefur beitt undanfarin ár; aðferð allsherjarverkfalla, þar sem ákvarðanir eru ekki byggðar á vilja verkamanna, heldur þeirra einna sem í forystunni eru.

En hugmyndir forystunnar urðu ofan á. Tillögunni um að beitt yrði skæruverkföllum var vísað til verkfallsnefndar og tillagan um yfirvinnubann var felld samkvæmt úrskurði fundarstjóra, án þess að atkvæði væru talin, þó svo að vart mátti á milli sjá hvort meirihluti fundamanna væri henni andvígur eða ekki. Að lokum varð það úr, að tillögunni yrði vísað til verkfallsnefndar.

Það vekti litla undrun, að þeir sem studdu Dagsbrúnarstjórnina sem ákafast voru trotskistarnir í Fylkingunni og Sós-

Framhald á síðu 2.